# Dagsbrún.

MÁNAÐARRIT

til stuðnings frjálslegri trúarskoðun.

Ritstj. M. J. Skaptason.

ANNAÐ ÁR.

GIMLI, MAN.
PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU G. M. THOMPSON'S.
1894.

EFNIS-YFIRLIT.

# Dagsbrún.

Mánaðarrit

til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., JANÚAR 1894. | 1.

## ÁVARP.

Kæru vinir og kaupendr „DAGSBRÚNAR!“

Vér færum yðr þakklæti vort fyrir stuðning þann, er þér hafið veitt blaðinu með því að kaupa það og borga. Það voru sumir að segja að vér hefðum rasað fyrir ráð fram, er vér byrjuðum útgáfu þess, án þess að vita með vissu, hvort vér fengjum næga kaupendr, eða ekki, en reynslan sýndi það, að traust vort til landa vorra, til frelsisneistans, sem býr í hinni íslensku þjóð hér vestan hafs, var á bjargi bygt, og vér endrtökum þakklæti vort til landa vorra fyrir hinar góðu undirtektir manna með að styrkja blaðið. Því miðr hafa tímarnir verið svo harðir, að þriðjungr kaupenda blaðsins hefir ekki getað borgað það enn, og hefir það gjört oss mikinn hnekkir og af því stafar óregla á útkomu þess. Vér höfðum engan höfuðstól til að byrja með, og getum því að eins haldið því áfram, að vér fáum jafnóðum inn til að borga kostnaðinn, eftir því sem hann fellr á. Margir útsölumenn blaðsins hafa reynst oss bestu drengir, hafa borgað að meiru eða minna leyti úr sínum vasa þau eintök, sem þeir hafa selt, en ekki getað fengið borgað, svo sem þeir herrar B. Jósafatsson, Pembina; Hon. Sk. Brynjólfsson, Hallson; Björn Halldórsson, Mountain. Ef fleiri væru þeirra líkar, þyrftum vér engu að kvíða. Menn gæta of sjaldan að því, hvað það hefir að þýða, að ganga úr liði að styðja málefni eitt peningalega, sem peninga þarf við. En þar und-

ir er framgangr allra fyrirtækja kominn, að menn liggi ekki á liði sínu í þeim efnum. Og síst af öllu ættu menn að gjöra það, þegar um málefni þau er að ræða, sem mönnum er annt um. Það er vitaskuld og eðlilegt, að menn vilji leggja sem minst í sölurnar, en menn verða að gæta þess, að vera ekki svo knappir, að málefnið fyrir það hljóti að falla. Það getr hver maðr séð, að framfarir vorar í trúmálum standa eða falla á peningaspursmálinu. Það er því undir hverjum einstökum manni komið, hvort menn vilja halda þeim við eða fella þau.

Aftr er annað undarlegt, sem vér viljum benda mönnum á, og er það það, að það lítr svo út, sem margir landar vorir séu að berjast á móti sjálfum sér. Menn, sem unna frjálsum hugsunarhætti og frjálsum félagsskap í trúmálum, ekki einu sinni láta það vera, að styðja stefnu þessa með framlögum, heldr einmitt hið mótsetta; menn, sem neita „fyrirdæmingu" og „innblæstri," þeir telja sig bæði með lúþerskum og styrkja þá, en láta skoðanabræðr sína falla í valinn fyrir féleysi. Hvaða meining er í þessu? Vér þykjumst vissir, um að hinir lúþersku bræðr vorir í rauninni vilji ekki þiggja styrk þessara manna; þetta er nokkurskonar sjálfsmorð, ef menn gættu að því.

Hvað árangrinn af útkomu „DAGSBRÚNAR" snertir, þá erum vér ánægðir með hann. Menn eru farnir að hugsa sjálfir meira en áðr. Óttinn fyrir eilífu víti er svo farinn að dofna, að varla finst nokkur maðr, sem treystist til að halda því fram. Djöfullinn heyrist varla nefndr á nafn, nema til að brosa að honum. Þessari gömlu martröð er farið að létta af mönnum. Hún kvelr einlægt færri og færri á dauðastundinni og hún má líka fara, það er öldungis víst, en það er eins og séra J. B. sagði einhverju sinni, að ef að þessi kenning færi, þá færi einnig meira með. En mega menn ekki verða fegnir, að sjá og læra að þekkja það sem *óhrekjandi* sannleika, að allr sá grundvöllr, allar þær trúarsetningar, sem bygðar eru á helvíti og djöflinum, eru lygar og uppspuni til þess að kúga og pína trúgjarna menn. Opinberlega eru menn búnir að afneita þessari kenningu, menn eru farnir að *skammast* sín fyrir hana. Oss gleðr það mjög, að opinberlega á fundi suðr í Dakota, er haldinn var til að mynda söfnuð þar, er sagt, að prestarnir syðra hafi lýst því yfir, að trúin á innblástr ritningarinnar og helvíti væri ekki neitt aðalspursmál fyrir þá; það er góðr vottr, vottr um, að þeir eru farnir að hugsa líka og fyrirverða sig

fyrir þessar ljótu hugmyndir um Guð. Það er heldr ekki hægt annað, unga fólkið okkar sér þetta, og því er hávaðinn af því með oss. En þó að vér finnum það, að vér séum á réttri leið, að bjargið þunga, sem vér byrjuðum að velta, sé farið að bifast, þá megum vér ekki leggja árar í bát, vér megum ekki halda að oss höndum, því þá veltr bjargið ofan á oss aftr. Vér skulum taka höndum saman og styðja hver annan. Vér vitum, að vér vinnum fyrir velferð mannkynsins með því að hrinda hinum lágu og óvirðulegu hugmyndum um Guð og annað líf, sem eru svívirða bæði fyrir mannkynið og skaparann, vér vitum, að vér vinnum Guði til dýrðar, en sjálfum oss, börnum og afkomendum til velferðar. Það er komið los á bjargið, látum það ekki falla aftr í sitt gamla sæti. Menn eru farnir að fyrirverða sig fyrir trúna á djöful og víti og bókstaf, varla nokkur maðr treystist nú framar, að játa hana. Upprunaspillingin játa menn nú að sé ósamboðin manninum. Syndafallið játa menn að sé þjóðsaga ein, og að syndaflóðinu brosir hvert barnið. Burt með þessar óvirðulegu kenningar; en höldum í þess stað á lofti föðurást Guðs, að vér séum hans börn, og eigum að verða honum velþóknanleg svo að ekkert geti skilið oss frá honum, „hvorki háski né sverð, hvorki hungr né drepsótt hvorki höfðingjadæmi né völd, hvorki dauði né líf,“ því vér eigum að verða „eitt með honum“ að lokum.“

---

# Þroskunar-lögmál.

(Þýðing).

---

Ef vér förum að virða fyrir oss þroskunarhugmyndina (evolution), þá getum vér tekið manninn eða þroskun hvers einstaklings, sem dæmi upp á þroskun alls mannkynsins.

Vér skulum taka barnið, sem fyrst er farið að læra stafrofið og fáeinar vísur utan að, það er svo hjartanlega sannfært um það, að það viti ósköpin öll. Drengirnir okkar eða telpurnar litlu, sem byrjuð eru að læra undirstöðuatriðin í sögu, landafræði, reikningi, málfræði o. s. frv., eru svo hreykin af því, hvað mikið þau viti. Þegar hærra kemr og börnin okkar eru búin að ganga í gegnum barnaskólana og eru farin að búa sig undir æðri skóla, þá fara þau að sjá það, að það

sé þó töluvert, sem þau eigi eftir ólært, en þau ætla, að það sé svo sem sjálfsagt, að þau geti lært það alt á þessum æðri skólum, sem þau eru að búa sig til að ganga á. En þegar þau eru búin að læra alt á þeim skólum, sem lært verðr, þá fara augu þeirra að opnast og þau fara að sjá það, að með þessum afarmikla lærdómi, sem þau héldu að væri, hafa þau ekki lært alt, sem lært verðr, það fara að ljúkast upp á þeim augun fyrir því, að þótt þau séu nú búin að vera að nema í ein 10—15 ár, þá eru þau þó ekki komin lengra en að því, að vita *hvernig* þau eiga að fara að nema. Þá fyrst geta þau farið að nema, og eftir því, sem árin safnast yfir þau, fylla þau huga sinn með einu og öðru af hinum svo kölluðu vísindum manna. En eftir því sem lengra líðr á æfina og þau sökkva sér dýpra og dýpra niðr í að nema og rannsaka og skoða, þá sjá þau, að það, sem þau hafa numið, er í samanburði við það, sem þau eiga ónumið, sem vatnsdropi einn á móti úthafssænum. Þarna sjáum vér þroskun (evolution) einstaklingsins, og eins og henni er varið, eins er varið þroskun mannkynsins.

Fyrst verða fyrir oss spurningarnar „hvaðan" og „hvert." Fyrst af öllu fara menn að hugsa um upprunann, hvaðan maðrinn og náttúran og heimrinn sé kominn, og hvernig hann sé til orðinn. Fyrst af öllu, þegar maðrinn var orðinn svo þroskaðr, að hann fór að beita skynseminni, kendi reynslan honum það, að hver afleiðing hlýtr að hafa sína orsök. Hann sá það fljótt, að hann þurfti að framleiða með höndum sínum alt, sem hann þurfti sér til varnar og skýlis og þægginda. Svo fór hann að líta í kringum sig, og sá jörðina, með öllu því sem er og lifir á henni; hann sá fljótin og vötnin og sjóinn og skepnur þær sem í þeim lifa, og ljósin á himnum uppi, sólina, tunglið og stjörnurnar. Þær gengu brautir sínar og ýmist hurfu sjónum hans, eða komu í ljós aftr. Hann sá fljótt, að það var langt umfram það, sem hann gat gjört, að búa þetta til eða stjórna því og halda því við, kom þá ósjálfrátt fram spurningin: „Hver hefir búið þetta til?" Hann leitaði eftir svari, en það gekk ekki svo greitt að fá það; hann fór að svara sér sjálfr og sagði: „Þessir hlutir eru allir handaverk veru þeirrar, sem er langt um meiri og vitrari og máttugri, en ég er, og nafn hennar skal ég kalla: Guð."

Þannig talaði hann, en var þó ekki ánægðr. Þessa hugmynd, sem hann hafði fengið, þurfti hann að gjöra líkamlega, klæða hana í líkamlegan og sýnilegan búning. Búningarnir urðu margir, sem von-

legt var. Sumir tóku eftir því að eldhnöttr sá á himnum uppi, sem vér köllum „sól,“ gaf mönnum ljós og hita, lífgaði grösin og blómin og ávextina; hún ferðaðist dag og nótt um himinhvolfið eins og hún væri að líta eftir öllu á jörðunni. Þeir hugsuðu sér því, að þetta hlyti að vera hin máttugasta vera í heiminum; þeir sögðu því við sjálfa sig: „Vér skulum fara og tilbiðja hana og kalla hana: Guð,“ og þetta gjörðu þeir um tugi þúsunda ára. Aðrir bjuggu sér til myndir af mönnum eða dýrum, eða þeir blönduðu saman manni og dýri og höfðu myndina hálfa mann og hálfa dýr og kölluðu þetta guði, voru guðir þessir mjög margvíslegir. Fyrst hafa menn lifað saman einstakir út af fyrir sig, eins og dýrin, en þegar „familian“ fór að myndast, og menn fóru að lifa fleiri saman, foreldrar og börn og ættmenn, þá fóru menn að sjá, að laganna þurfti við, og maðrinn fór að búa „lögin“ til eins og menn gjöra enn þann dag í dag, fyrir hvert eitt tilfelli, sem þeirra þurfti með í lífinu. En til þess, að gjöra lögin gildandi og koma mönnum til að hlýða þeim, þá fundu menn það ráð, að segja: „Þetta er lögmál Guðs vors, hann hegnir þeim, sem brjóta þau, en launar þeim sem hlýða þeim.“ Þannig fór *trúin* smátt og smátt að myndast. Hugmyndin um „hina fyrstu orsök“ var gjörð líkamleg og fékk nafnið „Guð,“ og lögin til þess að stjórna mönnunum voru tileinkuð Guði.

En loks kom að því, að einstakir menn fóru að skara svo fram úr öðrum, að þeir komust á æðra þroskastig. Menn þessir fóru að sjá og skilja það, að hvorki sólin, sem var einn hluti sköpunarinnar, eða myndir þær, sem þeir sjálfir höfðu búið til, gátu hafa skapað heim allan. En þegar menn fóru að skilja þetta, þá fóru menn að rífa niðr hina gömlu bygginguu, menn fóru að gjöra guð ólíkamlegan aftr, og gekk það miklu örðugra, en hið fyrra, að gefa honum líkamlegan búning. Menn áttu svo bágt með að gjöra sér hugmynd um „hina fyrstu orsök,“ höfund alls í ólíkamlegri mynd, svo að hann væri hvorki sýnilegr né þreifanlegr, hefði hvorki líkama né limi. Loks komust menn að þeirri niðrstöðu, að „hin fyrsta orsök“ væri skyni gædd hugsandi vera, lík manni að sköpulagi, en ósýnileg. En svo kom, að þessi hugmynd nægði mönnum ekki og menn tóku það ráð, að búa til *sambandslið* milli mannsins og hins ósýnilega Guðs, mann, er væri hinn útvaldi Guðs, og stæði í beinu sambandi við hina fullkomnu veru, Guð. Frá þessari hugmynd var nú ekki nema skref eitt til hinnar

næstu, til hugmyndarinnar um holdtekju Guðs. Þannig getum vér séð, hvernig hin kristna trú hefir smátt og smátt myndast, einlægt stigið af lægra stigi á annað æðra, uns þessu hinu æðsta stigi var náð.

En löngu áðr en trúin náði þessu þroskastigi, fóru menn að gjöra sér hugmyndir um annað líf, þær hugmyndir áttu rót sína að rekja til ástarinnar til lífsins, og óttans og hryllingarinnar fyrir því, að hætta að vera til. Þegar menn fyrst sáu félaga sína og vini, sem þeir höfðu elskað, alt í einu hætta að hreifast, anda, tala, sjá; þegar þeir sáu líkami þeirra eyðast og rotna, þá hefir það fyrst vakið bæði undrun þeirra og sorg. Skynsemi manna hefir sagt þeim, að afdrif þeirra mundu verða þessu lík, og svo hafa menn farið að grufla út í það, óljóst í fyrstu, hvort ekki væru nein ráð til þess, að komast hjá þessu, eða að minsta kostt draga úr því, svo það yrði ekki svona óttalegt, eins og menn æfinlega reyna, þegar menn mæta einhverju ógeðfeldu eða illu.

Menn höfðu snemma tekið eftir því, með sívaxandi undrun, hvernig trén og blómin og grösin á vissum tímum visnuðu og eins og dóu út; en urðu svo aftr eins og áðr fyrri, græn og ljómandi fögr, og full með líf. Vafalaust hefir þetta skotið manninum þeirri hugsun í brjóst, að líf mannsins mundi endrtakast eftir að hin hryllilegu umskífti væru um garð gengin. Hinsvegar var það honum ljóst að þessi endrnýjung lífsins gat ekki gengið fyrir sig á sama hátt og hjá trjánum og blómunum og grösunum, því ef svo hefði verið, hefði hann átt að sjá hina dauðu rísa upp og ganga um eins og þeir gjörðu í lífinu.

Menn ályktuðu því á þessa leið: Maðrinn hlýtr að lifna aftr að nýju, annaðhvort í öðrum líkama, eða þá, ef að hinn sami líkami á að endrlifna, þá verðr hann að endrlifna á öðrum stað.

Trúin á sálnaflakkið hjá hinum austrlensku þjóðum á rót sína að rekja til hinnar fyrri hugmyndar, en trúin á annað líf hjá hinum kristnu þjóðum, sem kallaðar eru og mörgum fleiri, til hinnar síðari. Þá eins og nú áttu menn sér óvini, og vildu síst af öllu að þeir hefðu sömu bústaði og þeir sjálfir eftir dauðann, en svo framarlega sem lífið byrjaði aftr, þá gátu þeir tæplega hugsað sér það, að þeir fengju sjálfir að njóta yndis og gleði í öðru lífi, en að óvinum sínum yrði fyrirmunað að lifa eftir dauðann.

Sökum þessa kom þeim til hugar, að skifta bústöðum hinna dánu

í tvo heima, í bústaði sælunnar og bústaði kvalanna. Nú þektu menn ekkert, sem gæti valdið meiri kvölum, en logandi eldr, það vissu menn af reynslunni og því létu menn kvalirnar, sem menn ætluðu óvinum sínum, vera þær að stikna í brennandi loga. Hefði menn hugsað sér lífið eftir dauðann þannig, að sál mannsins færi úr einum líkama í annan, þá hefðu menn látið sálir óvina sinna fara í líkami hinna lægstu og ófullkomnustu dýra, en vina sinna í líkami hinna æðri dýra.

Þarna sjáum vér tröppustigin, sem trúin hefir gengið í gegn um, hugmyndina um hina fyrstu orsök eða „guð,“ hugmyndina um lögin, sem menn láta vera komin beint frá Guði, svo menn verði viljugir að hlýða þeim, framhald lífsins, og hugmyndina um hegningu yfir þeim vondu og laun fyrir þá góðu í öðru lífi. Þessar hugmyndir eru grundvöllurinn undir trúbrögðum allra þjóða, hvar svo sem þær eru á jörðunni, en þær eru mikið breyttar eftir því á hve háu þroskastigi þjóðin er, sem hefir þær.

Vér sjáum því að trúbrögðin eru öll ein samanhangandi heild, þau eru ráðgáta, sem menn eru að búa sér til, sem menn eru að hugsa út. Vér sjáum það, að þessi hugmynd, „trúbrögðin,“ vex og þroskast og skýrist. Fyrst hneygðust menn að því, að gjöra Guð líkamlegan, að gjöra hugmyndina um annað líf líkamlega líka, en nú falla menn einlægt meira og meira frá því, og því meira, því hærra sem menn koma á riðið, því skarpari sem hugsunin verðr. Villimaðrinn, sem stendr á lágu stigi, hvað alla sálarhæfileika snertir, getr ekki skilið neitt, nema það, sem hann getr séð og þreifað á, fyrir því gjörir hann sér myndir af guðum sínum, sem hann tilbiðr, þar sem kristnir menn gjöra sig ánægða með þá mynd, sem þeir búa sér til af Guði í huga sínum.

En villimaðrinn trúir því eins fastlega að sinn guð sé hinn sanni og rétti guð, eins og hinn kristni maðr, að hugmynd sín um hina „fyrstu orsök,“ hinn „andlega guð,“ sé hin eina rétta. Þetta leiðir oss aftr til þeirrar skoðunar, að líf einstaklingsins, hvers einstaks manns, sé fyrirmynd á lífi alls mannkynsins yfir höfuð.

Villimaðrinn er barnið, sem trúir því, að það, að þekkja stafrofið, sé hin mesta speki, og kristnu mennirnir eru eins og skólalærisveinarnir, sem ætla að það sem þeir hafa í skólanum lært, sé öll heimsins speki.

---

# Orðið og hugmyndin „Jehovah“ eða „Jahve.“

Eftir C. L. Abbott.

(Lausleg þýðing).



Gyðingar stafsettu nafnið á guði sínum Y.h.w.h. Báru þeir svo mikla virðingu fyrir nafninu „Guð,“ að lesendum hinna helgu rita var bannað, að nefna þetta nafn, eftir því sem það var ritað þarna, og því höfðu þeir í staðinn nafnið „Adonai,“ sem þýðir: drottinn. Þessi virðing fyrir nafni guðs þeirra var bygð á Levit. 24, 16., þar sem bannað er, að leggja nafn guðs við hégóma. Þetta leiddi seinna til þess, að enginn nema prestarnir vissu, hvernig átti að bera nafnið fram, og loksins óx helgi þess svo, að *þeir* vissu það ekki heldr. Það er sagt að Símon „hinn réttláti,“ er uppi var um 300 fyrir Krist, hafi verið hinn seinasti, er kunni að bera nafnið fram, en síðan hann leið enginn.

Þegar „Massoretar“ fundu upp hljóðstafa merkin* milli 600 og 800 árum eftir Krist, þá bættu þeir inn í nafnið „Yhwh“ hljóðstöfunum: *e*, *o* og *a*, svo að nafnið varð þá: *Yehowah.*

En þegar vér sjáum það, að Gyðingar sjálfir viðrkenna, að framburðrinn á nafninu sé glataðr, þá hlýtr sú spurning að koma oss til hugar: hvaða vissu höfum vér fyrir því, að þessir hljóðstafir séu hinir réttu? Hvernig vissu Gyðingar, hvaða hljóðstafi átti að setja inn í nafnið, þegar þeir aldrei höfðu heyrt það framborið, aldrei heyrt hljóðið í orðinu? Menn hafa áðr deilt allmikið um þetta og hafa deilur þær nú fallið niðr.

Nafnið á guði kemr og 43 sinnum fyrir sem *Yah*, en alls staðar, nema á einum stað, hafa þýðendrnir breytt því og lagt það út: „drottinn.“ Þetta nafn „Yah“ á guði, finst í mörgum orðum öðrum, svo sem í Esa*jah*, Eli*jah*, hallelu*jah* (líkt og nöfn norrænu guðanna koma fram í öðrum orðum og nöfnum, svo sem: Þórsteinn, Þórmóðr, Þórvaldr o. s. frv.).

---

* Alt til þess tíma var enginn hljóðstafr í ritmáli Gyðinga, mátti því lesa hvert orð á marga vegu, og spruttu af því villur margar og „innblástrsleysi.“

Sumir ætla, að Yah sé stytt mynd af Yahweh og sé það eldra, en það er mjög ólíklegt, Gyðingar báru of mikla virðingu fyrir þessu nafni til þess, að fara að gera sér dælt við það og búa sér til gælunafn á guði sínum. Miklu meiri eru líkurnar fyrir því, að Yah sé hið upprunalega nafn á Guði, en þá er spurningin: hvaðan kom þetta nafn? Vísindamenn hafa töluvert fjallað um þetta mál og komist að þeirri niðrstöðu, að nafnið sé kaldeiskt. Ættland Gyðinga var Kaldea. Þaðan voru þeir komnir, og goðsagnir Kaldeumanna skýra frá Guði einum, sem að líkindum er hinn sami og Gyðingaguðinn *Yah*. Það er Kaldeaguðinn „Ea," sem rekja má aftr enn lengra upp til hinna Mongólsku Accada. Nöfn beggja þessara guða eru borin fram á líkan hátt. Í steinrúnum Kaldea er Ea nefndr „Guð lífsins og þekkingarinnar," „drottinn spekinnar," „drottinn laganna," „hann, sem veit alla hluti," „drottinn afgrynnisins" og „konungr vatnanna og garðsins." Hann er látinn koma fram sem verndari og hjálpari í syndaflóðssögu Babýlonarmanna. Þar er sagt, að Bel vildi eyðileggja mannkynið og láta engan undan sleppa. Ea vill það ekki og vill láta nokkra lifa eftir. Hann segir manni einum, að byggja skip og taka á það vini sína og skepnur. Vatnsflóð geysar yfir og tekr því nær til himins, svo að guðirnir sjálfir verða óttaslegnir, en „Ea" gefr skipinu góða lendingu á fjallstindi einum og frelsar þannig nokkurn hlut af mannkyninu.

Í guðakerfi Kaldea var „Anu" konungr guðanna og guð hins æðsta himins, „Ea" var verndari og hjálpari manna og „Bel" guð kraftarins, hegningarinnar, herskapar og dauða. Voru þessir tveir síðar nefndu börn „Zicu," loftsins. Hver þessara guða átti sér konu. Hét kona „Ea:" „Davkina." Börn þeirra voru: „Tamzi", „Bel," „Merodach" og „Istar;" kölluðu Púnverjar og aðrar þjóðir austrlanda þá „Baal" og „Astoreth." Nú er ómögulegt að bera á móti því, að alt til endrreisnar trúbragða Gyðinga á dögum Josiahs, 621 fyrir Krist, voru þeir Baal, Astoreth og Yah dýrkaðir allsstaðar þar, sem Gyðingar tilbáðu Guð, bæði Ísraelsmenn og Júðaflokkr, og verðr þetta ekki skýrt á annan hátt en þann, að Ea hafi fyrst verið dýrkaðr sem hinn fyrsti og æðsti guðanna, en síðan eingöngu, sem hinn eini Guð.

Þetta verðr þá uppruninn að hinum grimma Gyðingaguði, er þáði blóðugar fórnir bæði dýra og manna, sem deyddi saklausa frumburði, sem skipaði að slátra jafnt konum sem körlum, jafnt börnum

sem brjóstmylkingum. Þetta er guðinn, sem innblástrinn er frá kominn og valdið hefir hinum óttalegu trúboðunarstríðum í 19 hundruð ár, þetta er guðinn prestanna, þeir hafa klætt hann í gyðinglegan, kaþólskan, presbyterianskan, lúþerskan búning, en látum hann ekki lengr vera vorn Guð, setjum guð Krists í hans stað, hinn kærleikrsríka guð, og látum hann drottna í vorum hjörtum og verka þar frið og eindrægni og bróðrást, en deyða hræsnina og lygina, sem nú gagnsýrir svo tíma þá, er vér lifum á, að menn stynjandi og andvarpandi ganga til hinna helgustu athafna, til að hræsna fyrir guði og heyra, hver bezt geti skrökvað á þeim stað, þar sem hann er tilbeðinn.

---

# Athuganir við sköpunarsöguna.

## XII.

*Siðferðisleg og andleg sköpun.*

Með fám orðum skal loks minst á hina æðri andlegu sköpun, þótt ekki sé hún eins áþreifanleg og hin. Fyrst fékkst maðrinn við að ná valdi yfir náttúrunni, en síðan fór hann að ná valdi yfir sjálfum sér. Um leið og maðrinn var að temja villidýrin, tamdi hann einnig sjálfan sig, um leið og hann ræktaði jörðina breytti hann ástríðum sínum með þyrnum þeirra og þistlum í blóm og ávexti, um leið og hann fræddist um lög náttúrunnar, þroskaðist sála hans samkvæmt lögmáli hennar, og um leið og hann bygði sér skýli og heimili, lagði hann grundvöllinn að mannúð og mentun. Samfara heimilislífinu byrjar mannfélagið. Vér gátum séð forboða familíunnar í blóminu, og enn þá skýrara hjá spendýrinu, en nú byrjar hún til fulls með manninum. Hjónaband manna er tengt fullkomnari böndum og afkvæmi þeirra er alið upp með meiri umhyggju og um lengri tíma. Familíurnar sameinuðu sig og mynduðu ríki, ríkin sameinuðu sig og mynduðu þjóðir er einlægt urðu stærri og stærri með margbreyttu fyrirkomulagi.

Jafnframt því, sem þetta borgaralega félag þroskaðist, þroskaðist réttlætishugmyndin líka. Þegar, er menn fara að eiga félag saman, fara þeir að meta og virða réttindi hvers annars. Boðorðin verða þeim opinberuð, rituð með enn þá skýrara letri, en á steintöflunum

foıðum. Nauðsynin sjálf neyddi þá til þess, að viðrkenna boðorðið: „Þú skalt ekki náunga þínum mein gjöra,“ alt að einu fyrir það, þótt þeir álitu það sjálfsagt, að gjöra öllum öðrum, en nánustu félögum sínum það rangt til, sem þeir gátu. En eftir því, sem ættflokkarnir blönduðust saman, þroskaðist réttlætishugmyndin, þótt smá væri í fyrstu; hún þroskast einlægt og vex og verðr að lögum hjá þjóðunum og jafnrétti milli þeirra innbyrðis.

Jafnframt því, sem félagshugmyndin vex, þá vex og þroskast einnig mannúð og blíða. Ljúflyndi það og blíða, sem vér sáum spendýrið læra við brjóst móðr sinnar, nær hjá manninum ekki einungis til barnanna, heldr til barnabarna þeirra og víkkar út til fjærstaddari skyldmenna. Það tengir ættflokkinn saman með trygða- og þjóðina með vináttu-bandi. Ávextir þess verða hinir mannúðlegu hæfileikar og koma þeir í ljós í ýmsum góðgjörðastofnunum, þar sem hvorki er gjörðr munr á ættflokki eða þjóðerni, en allir menn eru skoðaðir sem bræðr, hvort heldr það er „Gyðingr eða griskr, þræll eða frelsingi.“

Með félagshugmyndinni vex einnig fegrðarhugmyndin og fegrðarfýstin. Náttúran sjálf sýnir oss fegrðina í yndislegum myndum og litbreytingum. Hinn óásjálegi kofi stækkar og verðr að snotru og smekklegu heimili, og hið klunnalega guðalíkneski verðr að ljómandi og haglega gjörðri myndastyttu. Jafnvel hin hroðalegu manndráp verða einn liðr í fegrðarþroskuninni. Málið, sem villimenn hafa til að mála andlit sín og gjöra þau ófreskjuleg á ófriðartímum, verðr seinna notað til að mála með hin fegrstu málverk. Bogi villimannsins breytist í hörpu, með því að leggja streng við streng. Svo kemr mentunin og veldr enn þá fegri sköpun. Málið líkist afarmiklu taugakerfi mannfélags-líkamans, og skýrir einni kynslóðinni eftir aðra reynslu og sögu hinna undanfarandi kynslóða. Bókhlöðurnar eru eins og sístarfandi ódauðleg heilakerfi, og hrúga upp hugsunum, þekkingu og tilfinningum, og geyma þetta enn þá betr en nokkurt manns minni öld eftir öld. Þannig hefst mentunin frá hinum tryltu hersöngum og bardagasögum og vefr sannleikann í hugmyndasköpun, er geyma hinar veglegustu hugmyndir og vonir manna og blása mönnum öðrum nýjum í brjóst.

*Trúin* rís og einlægt hærra og hærra. Hún byrjaði með hinum blóðugu fórnum til þess, að fæða og sefa hina reiðu guði, hún vex til þess er hún nær hugsjón sinni í hinum mannlega Buddha eða Kristi,

sem kendi algjörða miskunnsemi, og að hin rétta fórn, sem guðunum skyldi færa, væri að þjóna mönnum og afneita sjálfum sér fyrir aðra. Tilbeiðslan sjálf þroskast líka. Hún byrjaði með óttanum fyrir hinum veika guði, „sem gekk um kring í aldingarðinum.“ Hún þroskast og verðr að lotningu fyrir nærveru guðs, hins ósýnilega, en sem þó er sí og æ „á milli trjánna,“ og allsstaðar innan um sitt sköpunarverk; hún gengr eftir stigum kærleikans engu síðr, en stigum lögmálsins.

Og það er aðdráttarafl hlutanna sem veldr þessari sköpun. Efnið dregr að sér efni og myndar þannig sólir, sól dregr að sér sólu og myndast þannig sólkerfi, smáagnir myndast af samdrætti enn smærri ósýnilegra agna. Þessar smáagnir dragast saman og mynda krystalla og kompur (cells), kompurnar dragast saman og mynda lifandi líkami. Karlkyn og kvennkyn tengist í blómstrum og familíum, familíurnar tengjast, og verða flokkar og þjóðir. Maðrinn tengist konunni og foreldrarnir börnunum, vinr tengist vin óslítanlegu kærleiksbandi, sem slitnar ekki við gröfina, því það nær inn í eilífðina, og þetta band lengist einlægt og tengir mennina saman í friði og bróðrkærleik. Þessi sköpun sýnir því hina djúpu þýðingu í orðunum: „Guð er kærleikr.“ Þessi „alfaðir“ vefr sig meira og meira um börnin sín. Fyrst vermdi hann efnið í sólunum, lét blóðið verma dýrin og lífga, lét móðurina vermast af ástarylnum, lífgaði alheiminn með sínum krafti, og þótt hann sé of hátt upp hafinn til þess að fara í manngreinarálit, þá er þó, sem hann tali með meira en móðurlegri ást: „Getr móðirin gleymt barninu á brjósti sér? Já, svo er víst, en — ég skal ekki gleyma þér.“

E n d i r.

---

# Er syndaflóðið sögulegr og sannr viðburðr eða ekki?

—:o:—

Alt til skamms tíma hafa menn ætlað það, að mannkynið alt sé frá Nóa komið; menn þektu ekki annað um uppruna mannkynsins, en hinar hebresku sögur í ritningu vorri, menn ætluðu, að um hina eldri tíma mannkynsins gætu menn aldrei fengið aðra hugmynd en þá, sem þar er skráð; sagnafræðingarnir voru ekki miklir fornfræðingar, hvar á landi sem þeir voru, þeir hættu sér því lítið út í fornöldina,

annað en það, sem þeir tóku eftir grískum og rómverskum rithöfundum, þeir báru svo mikla virðingu fyrir hinu gamla, þeir vildu ekki og máttu sumir hverjir ekki, ef þeim var lífið kært, hagga gildi ritningarinnar, sem innblásinni frá upphafi til enda, þeir hugsuðu því ekki lengra út í það, en að mannkynið (ɔ: frá Adami) væri tæpra sex þúsund ára gamalt eins og jörðin sjálf og alheimrinn, en hið síðar mannkyn frá Nóa ekki nema liðlega 4000 ára gamalt, því Nói átti eftir biflíutali að hafa verið uppi um 1650 árum eftir sköpun veraldar, eða 2350 fyrir Krist, eftir voru tali, því að í hinni gömlu þjóðsögu Hebrea um flóðið, sem átti að hafa komið yfir heiminn fyrir syndir mannanna stendr í 1. Mós. 7, 20.—24: „Fimtán álnir gekk vatnið yfir fjöllin svo þau fóru í kaf, þá dó *alt* hold, sem kvikar á jörðunni, fuglar, fénaðr og dýr, og ormar, sem þá skreið á jörðunni og *allir* menn. *Alt*, sem hafði lifandi anda í nösum sínum, *alt* á þurlendinu það dó, og þannig var afmáð *sérhver skepna*, sem var á jörðunni. Nói *einn* varð eftir og það, sem með honum var í örkinni.“

Mörgum manninum þykir nú gaman að vita það hvort þetta sé nú verulega svo, að menn þeir sem nú lifa á jörðinni séu allir frá þessum Nóa komnir, sem átti að hafa lifað um 2350 árum fyrir Krist, þá átti þetta flóð að hafa komið, sem drekti öllu lifandi á jörðunni nema Nóa gamla og dýrum þeim, sem hann bjargaði í örkinni, frá honum áttu svo aftr allar kynkvíslir jarðarinnar að útbreiðast og öll dýrin, sem nú eru til. Eftir því hlytu allar þjóðir á hnettinum að vera yngri, en Nói gamli; engin þeirra ætti að geta talið ætt sína lengra fram. En nú skulum vér sjá: Þetta flóð átti að hafa komið um 2350 árum fyrir Krist; nú skulum vér halda niðr í sögunni til daga Mósesar, sem uppi var um 1500 árum fyrir Krist og litast um, hvort þá séu líkur til að mannkynið sé ekki eldra, en nálægt 800 ára. Ég ætla að skreppa með yðr til Egyftalands, þessa undr frjófsama dals í norðaustrhorni Afríku, þar sem áin Níl veltir sér yfir bakka sína til þess að flytja nærandi lífskraft yfir miljónir ekra. Dalrinn er breiðr neðst, en mjókkar upp eftir. Þegar vér förum upp eftir ánni Níl, þá blasir við augum vorum hver stórborgin á eftir annari. Hvert musterið á eftir öðru gægist gegnum pálma- eða myrtus-lunda. Það eru ljómandi byggingar, eldgamlar, en sem þó aldrei hafa í flóð komið, veggirnir eru útskornir alls konar myndum og rúnaletri um frægðarfarir konunga þeirra í fornöld, sem þá var. Nú eru að eins eftir rústirnar, súlnagöngin,

meir eða minna af hinum risavöxnu konungamyndum. Þær sitja oft á stóli með höndur lagðar á kné, tröllslegar að vexti, hver ein höggvin út úr einum steini. Í borgunum er alt á flugi og ferð, menn eru þar að kaupa og selja, rétt eins og enn þann dag í dag. Menn eru sumstaðar í hópum þúsundum saman, og manngrúinn veltist áfram, rétt eins og í stórborgum vorum einhvern hátíðisdaginn. Við hin skrautlegu musteri sjáum vér líkfylgdirnar ganga í „processiu" rétt eins og á vorum tímum, með nokkuð frábrugðnum siðum. Prestarnir blessaðir fremstir í flokki. Hinir fornu Egyftar hafa verið álitnir trúmenn miklir. Nærri hver dagr var helgaðr einum eðr öðrum guði. Vér sjáum borgina Thebu, höfuðstaðinn í efra Egyftalandi og musterisstaðinn Karnak, einhvern þann nafnfrægasta í heimi. Prestarnir bera fram fórnir, bænir, kynda myrrhu og reykelsi fyrir guðum sínum. Þeir dýrkuðu guð í þrenningu alloft, Osiris, skaparann, Horus, frelsara þeirra, og Typhon, hinn vonda anda, sem þeir kölluðu. Hann átti snemma að vera baldinn, því hann braust út um kvið móður sinnar Nutpe er hann fæddist. Vér sjáum hina risavöxnu Pyramyda, ferstrenda, hlaðna uppmjóa úr höggnu grjóti, fleiri hundruð feta háa og svo ummálsmikla að neðan, að þeir ná út yfir fleiri dagsláttur (ekrur). Ef vér komum inn í grafreitina, þá sjáum vér minnisvarða hinna dánu skína með logagyltum útskurði og ljómandi fagrlituðum málverkum. Eina æðstu veru dýrka þeir umfram aðra, þó fáir aðrir en prestar þeirra: Amun, hinn hulda guð, hann á að vera skapari og viðhaldari allra hluta. Með söngvum og serimonium fylgja þeir ástvinum sínum til grafar. Þeir trúa á sálnaflakkið, á hinn mikla dóm, er Osiris á að dæma alla menn, eftir því hvort þeir hafa lifað vel eða illa. Stundum myndi oss þó bregða í brún, er vér kæmum í eitthvert musterið og gætum séð bak við fortjaldið inn í hið allra helgasta. Þar inni fyrir er þá kannske annaðhvort naut eða köttr, eða eitthvert annað dýr, sem tignað er, en egyftsku prestarnir mundu ekki verða ráðalausir fremr en nafnar þeirra nú á dögum, ef vér færum að spyrja þá hvernig á þessu stæði. Þeir myndu fljótlega segja: „ekki skaltu hugsa að þetta sé guð sá, er vér dýrkum, heldr er þetta sýnishorn hins skapandi kraftar, sem gefr öllu líf og vitund og hræring. En mentaðir voru þeir, þessir Egyftar. Þar gengu hinir mestu spekingar í skóla: Móses, Pythagoras, Herodot og Plató. Egyftar þektu lengd ársins og lögun jarðar, þeir reiknuðu út myrkva

ólar og tungls, þeir þektu mælingafræði, söngfræði, efnafræði, læknisfræði, byggingarlist, akuryrkju og námagröft. Hinar stærstu byggingar, sem smíðaðar hafa verið alt til þessa eru minni, en Pyramidar þeirra. Steinmyndin af Rameses 2. konungi þeirra vegr 900 tons. Egyftsk myndaskrift er að *minsta kosti* rituð 3000 árum fyrir Kr., 5—600 árum fyrir flóðið, ætla sumir hana *miklu* eldri. Egyftskr fornfræðingr, Lepsius, sá blekbyttuna og reyrpennann á myndum frá tímabili 4. konungsættarinnar, 8—900 árum fyrir flóðið, og papyrus-stranginn hefir sést á myndum frá tímabili hinnar 12. konungsættar, um 3000 f. Kr. (sjá Enc. Br.). Hin elstu veggjamálverk sýna listir og mentun svo langt á veg komnar, að sjálfa fornfræðingana furðar á því. Vér sjáum þar hús með dyrum, gluggum og „veranda,“ víngarða og aldintré; glergjörðarmenn voru Egyftar miklir, og er þetta alt *miklu eldra* en flóðið. Á veggjunum gömlu sjáum vér myndir af hermannaflokkum á göngu, vopnuðum með spjótum og skjöldum, slöngum, knífum, öxum, sverðum, brynjum og öðrum hertygjum. Húsin eru útbúin allskonar stólum, borðum, legubekkjum, í mjög skrautlegum stíl. Þar eru sýndar stúlkur dansandi á stuttkyrtlum, menn glímandi, leikandi og teflandi. Þar eru sýndar barnabrúður og ýmislegt leikfang, ölvaðir gestir í samsætum. Í allra handa glersmíði voru Egyftar snillingar, svo menn enn þann dag í dag hafa tæplega getað komist til jafns við þá. Kínverskar flöskur hafa fundist í gröfum frá tímabili 18. konungsættarinnar (um 1600 f. Kr.), sem bendir á, að þá hafi verið samgöngur milli Egyftalands og Kína. Egyftar smíðuðu bæði gull og silfr. Allir rökuðu þeir höfuð sín, höfðu hárkollur og stundum falskt skegg. Kvennfólkið skrýddist eyrnahringum, armhringum, ökla- og háls-böndum, þær höfðu spegla, kamba og nálar. Musterin við Thebuborg eru öll eldri en 1000 árum f. Kr. Fornfræðingar þeir, sem styttst telja aldr Egyptalands konunga, segja, að Menes hinn fyrsti konungr þeirra hafi byrjað að ríkja um 3500 árum fyrir Kr., einum 1200 árum fyrir Nóaflóðið, en frá Menes tekr ein konungaættin við af annari. Hinir Egyftsku prestar sögðu hinum gríska sagnafræðing Heródót, að frá konunginum Menes og til hins fyrsta konungs Moeris væri 331 konungr (dálítið fleiri ættliðir en hinir 8, sem áttu að vera milli Adams og Nóa gamla). Frá Osiris til Anasis töldu þeir 15,000 ár. (Framh.)

# DAGSBRÚN.

Nýir kaupendr að II. árgangi „DAGSBRÚNAR“ geta fengið I. árg. hennar fyrir einungis 50 cents, á meðan upplagið endist.

## Kaupið Dagsbrún. Lesið Dagsbrún.

 Inn á hvert einasta heimili 

ætti „DAGSBRÚN“ að komast.

---

**SUNNANFARI. Verð árg. $1,00.** Útsölumenn Sunnanfara í Vestrheimi eru: W. H. Paulson, 618 Jemima Str., Winnipeg; Sigfús Bergmann, Garðar, N. D.; G. S. Sigurðsson, Minneota, Minn., og G. M. Thompson, Gimli, Man.

---

Frjálslyndasta íslenzka blaðið **Þjóðviljinn ungi**, III. ár, árg. 40 nr. á $1,00 Ritstj. Skúli Thoroddsen, flytr lesendum sínum innlendar og útlendar fréttir, fróðlegar, gagnlegar og ljóst samdar ritgjörðir og bókafregnir. Útsölum. G. M. Thompson.

---

## Nýir kaupendr að 46. árg. Þjóðólfs 1894

fá ókeypis:

1. Sögusöfn Þjóðólfs V. og VI., 278 bls.
2. Söguna af Þuríði formanni og Kambsránsmönnum, 1. hefti.
3. Sömu sögu, 2. hefti, er verðr prentuð á næstkomandi vori. Alls yfir 400 bls. ókeypis. Verð árg. $1,50. — Útsölumaðr G. M. Thompson.

---

ÍSAFOLD 1894, $1,50, NORÐRLJÓSIÐ, $0,85 og KIRKJUBLAÐIÐ, 0,60 eru til sölu hjá G. M. Thompson.

---

 G. M. Thompson hefir á hendi alla afgreiðslu á Dagsbrún og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans í þeim efnum. 

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún“ skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

---

„DAGSBRÚN“ kemr út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vestrheimi; á Íslandi Kr. 2.00, greiðist fyrir fram. Send til Íslands en borguð hér $0.75.——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

Prentsmiðja G. M. Thompson.